# Eptirtektaverd fráskýrsla

um

# Jóhn Covey,

einn engelskann sjóstrídsmanns;

útlögd úr svensku af útgéfaranum.

---

Í hinu ödru bindi sinna ritsafna skýrir herra Pratt frá einu uppvekjanda tilfelli um sjómann einn, á stridsskipinu Venerable, sem var yfir-skip þess engelska admírals Duncans, í sjó-orustunni, sem hann hélt á móti hollendskum þann 11 Octobr. 1797.

Herra Pratt féck þessa skýrslu frá síra Duncan, sem var skipspréstur admírals Duncans og hans ættingi, hvör ed í orustunni var hjá lækninum og hans félögum, þegar verid var ad binda um sár þeirra særdu, og saga limina af þeim sem þess vid þurftu.

En þad voru og svo nockrar fleiri kringumstædur, vid þetta tilfelli, sem gjördu þad enn

markverdara, hverjar fyrir og eptir orustuna mættu þeim vesæla sjómanni, hvers nafn ad var Covey.

Þessi Covey var gódur sjólidi, og hafdi medal sinna skipsstallbrædra ord á sér, fyrir sína hugdyrísku; en eins styggur sem hann var í sínum fyrirtækjum, svo blygdunarlaus var han í lastafullu líferni.

Hér um 14 dögum ádur enn sá engelski og hollandski flotinn mættust, dreymdi Covey, ad þeir komnir væru í bardaga, í hverjum hönum þókti bádir fætur sínir væru undan sér skotnir, og ad hann sídan sjálfur, ad því búnu, geingi af vitinu. Þessi draumur innskaut hjá þessum óskélsda strídsmanni einslags ótta, og vakti hann stundum til ad bidja fyrir sér. En af því hönum féll ecki vel í géd ad þeinkja um Gud, svo leitadist hann vid, med dryckjuskap og gudlausu tali, í umgeingni sinna skipsfélaga, ad útrýma slíkum þeinkingum úr huga sér, og nidurkefja bríxli sinnar uppvosknudu samvitsku. Þessi hans vidleitni vard þó forgéfins. Þánkinn um syndir sínar, um Gud, um daudann hertóku sinni hans bædi dag og nótt, samt uppfylltu hann med sorgligum smindunum um þad, hvad fyrir sér lægi í þessum og eptirkomanda heimi. Þessi órósemi fylgdi hönum inntil þess menn sáu til hollendska flotans, ad hann kom, og þá skipsfólkid tók ad tala um þaug hreystiverk, sem þad skyldi sýna í orustunni; því

þá hvurfu um sinn þessar sorgligu ímindanir burt úr hans huga.

Þegar flotarnir høfdu nú lagt hvør ad ødrum til orustu, þóknadist þeim edal-lundada admíral Duncan, til ad spara síns fólks líf sem leingst, ad þad skyldi leggja sig affram, á þilfarid, inn til þess þeir komnir væru svo nærri óvinunum, ad skot þeirra gjætu gjørdt þeim meiri skada.

Í sama bili skutu hollendsku skipin øll uppá admíralsskipid, sem siglt hafdi sún á þann hollendska flota, til ad rjúfa hans nidurrødunar línu. Sá óbilgjarni og ógudligi Covey, sem þá tapad hafdi øllum sínum fyrri tilfinníngum, útjós nú í einum hasti þeirri gressiligustu mergd, hinna skélfiligustu eida og formælínga yfir sína stallbrædur, þeirra líkami og sálir, og kalladi þá huglaus ragmenni, sem legdu sig á þilfarid, til ad umflýa kúlur hollendskra. Hann dró líka sjálfur undan ad hlýda skipun þessari, en þó loksins, af hrædslu fyrir hardneskju yfirmanns þess er hjá honum stód, lagadi hann sig ad nockru leiti þar eptir, og laut nidur, fram á eina vatnstunnu, sem stód þar hjá hønum, allt þángad til ad skipan kom til fólksins ad þad skyldi skjóta. En í sama augnabliki, sem hann stod upp, tók eitt stángarskot burtu annann hans fótlegg, og meiri part hins annars. Verkan þessa skots var svo hastarlig, ad jafnvel þó hann findi til nockurs, líkasem hita í limum sínum, vissi hann þó ei, ad hann misst hafdi annann

fót sinn, fyrenn hann, med þeim þverslýdda fót-leggs stúf, Geitti á þil'arinu og féll um koll. Undir eins var hann tekinn, og borinn ofan í það pláts í skipinu, hvar þeir særdu vóru, og þar var hans annar sundurknosadi fótleggur af honum skorinn, og um sár hans bundid. Nockrum tíma þar eptir reyndist hess þørf, ad saga báda hans fó leggi af honum, ofar enn ádur, Medan þad yfirstód, sagdi hann, med vidlagdri formælíngu, til læknarans: «Herra! ætli verkfæri þetta géti ecki fullkomnad það, sem kúlan byrjadi?" Jú, í sannleika, minn vin! svaradi læknarinn, ottast eg mjøg svo fyrir því Þá mælti Coveÿ: "þad er ad vísu mikid í varid, ad eg misst hefi fætur mína, það er satt, og kanské eg lika missi lífid, en", sagdi hann, og lagdi út gresslíganu eid um leid: «vér høfum þó sleigid þá hollendsku samt! svo eg fæ þá enn nú ad hafa eina glada stund fyrir það, hurra! hurra!" Þegar nú orustu-dunurnar vóru afstadnar, tók hann ad þeinkja aptur til draums síns, og bjóst nú vid, ad eins og sá eini partur draumsins rættur væri, svo mundi og svo hinn annar líka rætast. Já í sannleika, þegar madur ímindar sér þá kvøl, sem hann tók út, þegar bádir fætur hans vóru afsagadir og umbundnir, sem og hans sinnis óró-semi, af ótta fyrir því ad draumur hans algjørlíga rætast mundi, sýnast þad stærstu undur, ad hann þó hélt einnu ad øllu leiti.

Eptir það flótinn var nú aptur kominn til englands, var Coveþ, ásamt fleirum þeirra særðu, fluttur til Haslars hospitals. Allann þann tíma, sem hann dvaldi þar, var hann mikið ángurbitinn út af draum sínum, og því vonda líferni sem hann lifað hafði. Þó þeckti hann ei enn nú svikræði síns eigin hjarta, og þá skélfiligu vondsku, sem í því bjó. Hann þeckti ecki veiginn til að ødlast náð hjá Gudi, og hafði ei heldur neinn þann, sem vísaði honum til þess guðs lambs, sem burtu tekur veraldarinnar syndir; svo að eptir nockra mánuði liðna, þegar hann kom út af Haslars hospitali, og var orðinn svo sær, að hann á tveimur tréfétum og við hækjur gat geingið, þá var sinni hans mjøg niðursleigið af ótta fyrir því, að eins og syndir hans hafðu fellt yfir hann þann Guds dóm, að missa báða fætur sína, svo mundu þær og svo olla þess, að hann mundi missa skynsemi sína, og loksins sálina að því búnu.

Þegar hann nú heyrði talað um kyrkjuna, sem var á Oraniu gøtu þar í nánd hvar síra Griffin, einn hreinskilinn guðsorðs þénari, predikaði, þá géck hann, þann fyrsta sunnudag, eptir það kominn var út af hospitalinu, þángað, til að heyra prest þennann. Textin, sem presturinn predikaði út af var hjá Marc. 5. þessi: "Og þeir komu til Jesúm, og sáu þann mann, sem hafði djøfulóður verið, og í sér haft legion djøfla, sitjandi klæddann

og heilvita." Nú setti prestrinn þennann djöfulóða fyrir sjónir, svo sem eina hentuga fyrirmind allra syndara yfir höfuð, en þó sérdeilis drykkjurútara, blótmanna og þeirra, sem skaða sjálfa sig og adra; en á adra síðu syndi hann ofan á, að þessi sami, sitjandi við Jesú fætur, alklæddur og með fullri skynsemi, væri ein hardla hrærandi líkíng þeirs syndara, sem, fyrir evangelíi krapt, væri til Guðs umvendtur, og búinn að læra að þeckja syndarinnar vondsku, sálar sinnar dýrmæti, og þá þörf sem hann hefdi á því að frelsast af einum krossfestum endurlausnara, og þessvegna feingi nú að njóta sinnisins fridar, í umgeingni með Christo og hans fólki, í hlýðni við heilaga ritníngu, og léti þannig Christum sjálfann, sem væri syndaranna vinur, uppfræða sig til eilífs lífs.

Sovey hlýddi á þessa rædu med athugasemi og fullri forundrun, einkum yfir því hvörsu predikarinn gjæti þeckt sig á medal svo margra 100 manneskja, sem þar vóru samankomin; ellegar hvör hefdi kunnad að seigja hönum svo grandt frá hegdun sinni og sinnislagi. Hans órósemi óx nú enn framar, þá hann í sínum þánka saun sinn lifnad útmáladann, og þar að auki sínar leyniligu syndir. Hann gat ecki skilid, hvörsu einn guds orda þénari skyldi halda eina heila predikum út af sér, einum vesælings sjómanni á tréfótum. Hans syndir, hvörjar nú á ný komu

honum fyrir hugskots sjónir, uppfyltu hann með margsinnum geistligri hræðslu, enn nockru sinni áður.

Örvænting undirlagði, um nockrar mínútur, alla hans sinniskrapta; og hann ímindaði sér ei annað, enn hann mundi af vitinu gánga og síðan deya og eilífliga fortapast. En presturinn syndi að Jesús Christur væri eins fús til að gjöra þá allra verstu syndara sáluhólpna, sem hann var til að hjálpa þeirri vesælu manneskju, sem af djöflinum var besetin; sem og það, að undir eins og ein manneskja trúir á Jesúm, afmáist hún það sanna líf og ljós. Nú skildi Codey í fyrsta sinni þá réttu þýðíngu draums síns; hann sá nú, að hann alla sína lífstíð hafði sem vitstola verið, og það, að elska Christum og þjóna honum, væri að fá aptur sína fullu skynsemi. Miðt í því hann heyrði ómálaðann Jesú dásamliga kjærleika til syndaranna, umsnerist örvænting hans í von, hans sorg og hræðsla í fagnaðarfulla hugskotsró. Þaug augu, sem ecki feldt hösdu eitt einasta tár, þegar hann misti fætur sína, og ei heldur nær kúfarnir vóru afsagaðir, úthelltu nú sterku tára-flóði, sem spratt af þeirri megnu tilfinníngu gleði-blandaðrar sorgar, sem hann hafði í hjarta sínu.

„Nockrum vikum þar eptir" — segir síra Griffin frá þessu framar — „heimsókti hann mig, og sagði mér allt hvað fram við sig komið hefði. Hann furðaði sig stórum yfir því, að eg ecki

skyldi hafa neina fregn um sig adur feingid, þar ed predikan sú, sem eg haldid hefdi, hefdi þó svo náqvæmliga afmálad sitt sálar ásigkomulag. Nockru leingur, enn ári sídar, skutti hann sig í mína sókn, í hvörri hann jafnan sídan verid hefur einn verdugur medlimur, sem í lífi látid hefur full rök þess, ad hann ordinn væri einn réttskickadur og stadfastur christinn madur. Nú fyrir nockrum vikum (vid útgáng ársins 1805), þá eg vissi ad hann var siúkur ordinn, géck eg ad vitja hans. Þegar eg kom inn í húsid, þar sem hann var, mælti hann: komid inn, þér Guds þénari! mig hefur lángad eptir ad siá ydur, og ad seigja ydur frá mínu luckuliga innvortis ástandi. Eg held ad eg snarliga deya muni, en þar er í daudanum eckert skélfiligt fyrir mér. Broddur daudans er syndin, en Gudi sé lof, sem mér hefur sigurinn géfid fyrir Jesúm Christum. Eg fer nú til himnaríkis. O hvörsu mikid hefur Jesús gjördt fyrir mína skuld, einn þann skammarligasta syndara, sem jördin borid hefur!"

Nockru litlu ádur enn hann dó, þegar hann héldt sjálfur ad sín burtlausn væri mjög nálæg, sagdi hann: 'opt hefi eg hugsad, ad þad væri þúngbær og óttaligur hlutur ad deya, en nú finst mér þad vera mikid létt og audveldt. Málægd Christi gjörir mér þad audvelt. Sú gledi, sem eg finn til, af því ad þeckja kjærleika Guds til syndaranna, og af þeim þánka, ad fá ad vera

hjá mínum frelsara, ad vera frelsadur frá einu syndugu hjartalagi, og fá ad njóta Guds nálægdar eilífliga, hún er stærri enn eg géti med ordum útlistad. O hvorsu ólíkir eru nú mínir þánkar um Gud, um sjálfann mig og um adra veröldu, þeim sem eg hafdi, þegar eg missti mína dýrmætu limi, á stríds-skipinu fordum! Þad var eilin luckuligur missir, fyrir mig! Hefdi eg ecki tapad mínum fótum, hefdi eg máské tapad minni sálu.' Nú lagdi hann saman sínar hendur og upplypti þeim, hóf sín augu til himins, af hvörjum framstreim einn alvörublandadur fagnúdur, midt í því tár dundu ofan eptir kinnum hans, og sagdi: «o minn elskulegi herra! eg bid ydur, ad þegar eg er daudur, ad þér haldid þá eina líkrædu yfir þessum vesæla sjómanni, og seigid ödrum, einkum sjómönnum, sem eru svo fáfródir og illa sinnadir, sem eg var, ad sá aumi gudsspottari Covey hafi fundid nád hjá Gudi, fyrir trúna í Christi blódi. Seigid þeim, ad þar eg hafi fundid nád, þá þurfi einginn, sem leiti hennar, ad örvænta. Þér vitid betur enn eg, hvad hér um þarf frekar ad tala. En æ! talid mikid alvarliga vid þá; og géfi Gud, ad mínir vanartugu vinir og stallbrædur mætti finna nád, eins og Covey!" Hann taladi enn nú miklu fleira; en þaug sídustu ord, sem til hans heyrdust, vóru: Halleluja! Halleluja!

Kjæri lesari og heyrari! hvørja verkan finst þér nú frásaga þessi hafa gjørdt í hjarta þínu? Un efa muntú hafa furdad þig yfir þeirri stóru djørfúngu og hugarstyrk sem Covey hafdi, medan hann var strídsmadur; kanské og svo þú hafir rétt skélfdur ordid yfir hans frekju og samvitskuleysi; en hefurdú þá líka gjætt ad því, hvørsu þetta villudýr vard ad einu lambi, og þad fyrir eingann annann krapt, enn Christs evangelii?

Hefur þú þá undireins spurt sjálfann þig: gét eg ogsvo med sønnu sagt, ad ein þvílík merkilig umbreitíng hafi skéd í mínu hjarta? Hesi eg ogsvo feingid ad reyna þennann almættis krapt Guds nádar, til ad umvenda minni sálu? Þú sier i framanskrifadri frásøgu um Covey, eina náttúrliga útmálun einar stoltsinnadrar og forherdtrar manneskju, sem kjarlæg er því sanna réttlæti; en þú finnur líka svo í því, sem hann sídar hendti, eina ljósa utskýríngu um einn sannchristinn, og eina hugganarsamliga røksemd þess óraskanliga sannleika, sem þess er verdugur, ad þú hann af øllu hjarta medtakir, nefnliga: ad **Jesús Christur er í heiminn kominn, synduga menn sáluhólpna ad gjøra.**

Finnir þú þig nú uppvakinn til ángurs og hrósemdar yfir þínu synduga ásigkomulagi, svo leitastú ecki vid, eins og Covey í fyrstu gjørdi, ad útrýma þeim þaunkum úr sálu þinni med

holds gledi, heims sýslunum edur framhaldinni synda þjónustu. Gjørdu þér ei heldur þá fölsku huggun, ad þú ecki sért þvílíkur einn stór og blygdunarlaus syndari, sem þessi Codey var, og ad þú þessvegna ei þurfir sömu nádar vid, til umvendunar og sáluhjálpar, sem hann. Þú gétur þó einganveiginn neitad því, ad þú syndugur ert; þín samvitska sannfærir þig um þad, og Gud sjálfur lýsir því í sínu ordi: »ad allir séu syndarar og hafi af eingu ad hrósa sér fyrir Gudi", Róm. 3, 23. Á hvorn hátt sem þú syndgar vinnur þú til fordæmíngar og dregur yfir þig bannfæríngu; því dómur Guds heilaga lögmáls hljódar svo: "bölvadur veri hvør sá og einn, sem ei heldur allt þad sem skrifad stendur í lögmáls bókinni, ad hann gjøri þar eptir", Gal. 3, 10.

Þad gétur þessvegna ordid þér eitt svikult traust, ad þú ecki lifad hefur í grófum útvortis stór-syndum og löstum; þú hlýtur eingu ad sídur læra ad þeckja og vidurkénna þína hjartans djúpløgu spillíngu; já þú hlýtur, sem einn fortapadur syndari, ad snúa þér til Jesúm, og verda sáluhólpinn fyrir trúna á hann, sem þann rángláta réttlátann gjørir. En kannské þú þvert á móti sért einn af þeim vesælu synda-þrælum, um hvørja ritníngin seigir: "ad munnur þeirra sé fullur formælínga, túngunna brúki þeir til svika, og limi sína til ránglætis verkfæra", Róm. 3, 13. 14. hvørjir ed lifa í þeim holdsins verkum, sem

Paulus telur upp Gal. 5, 19–21. Sé nú svo, hefur þú þinn dóm áfsagdann med liósum og skýrum ordum; því ritníngin seigir ótvírædt, fortakslaust og hátídliga: "þvílíkir hafa ríngá hlutdeild í ríki Christi og Guds", 1 Eph. 5, 6. Skiót þessvegna ecki á frest ad þeinkja um hvad til þíns fridar heyrir; og undandrag þad ecki frá einum deigi til annars. Því hastarliga kann þér frá lífi þessu burtukipt verda. Skéd getur ad á þessari nóttu verdi sála þín frá þér tekin, Luc. 12, 20.

O! ad þessar hugleidíngar mættu vekja þig til alvarligasta eptirþánka um þína eilífu velferd! O! ad þær uppvektu hiá þér þá ähyggjufullu spurníngu: "hvad skal eg giøra, svo eg hólpinn verdi?" Snúdu þér þá med Cóvey til þíns frelsara, svo sem þú ert, eins og sá stærsti syndari. Akalla þú hans miskunsemi; svo muntú finna medaumkun og nád, allt eins og hann. Því Jesús er einn frelsari, sem medtekur syndara. Hver sál, sem trúir á hann, skal ecki fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Adgiættu þessvegna, af því sem vid Covey framkom, ferdeilis þad, hvørsu vor frelsari hefur makt ad fyrirgéfa syndirnar, og ad giøra syndara sáluhólpna, jafnvel þá stærstu. Guds miskunsemi og nád í Jesú Cristo umfadmar alla, jafnvel þær útskúfunarverdustu manneskjur. Hér er eingin útiluktur. Þetta evangelíum snertir þig ogsvo, minn lesari!

Um Jesúm vitna allir spámenn, að í hans nafni skuli allir þeir, sem á hann trúa, fá syndanna fyrirgéfníngu. Christ blóð hreinsar oss af öllum vorum syndum. Já, trú því með fullri vissu, minn vin! Það er mögulígt, að jafnvel hinn viðurstyggiligasti syndari verði sáluhólpinn, og kunni verða meðtekinn fyrir guðsbarn. Hvað Jesús einusinni gjörði, kann hann alltíð að gjöra. Hann er alltíð einn Jesús, einn frelsari. Hans miskunsemi er takmarkalaus. Hans stærsta gleði, hans inniligasta laungun er að frelsa syndara. Og svo þig — ef þú með ángurfullri sálu, í trúnni, snýr þér til hans — mun hann frelsa frá syndarinnar sekt og yfirdrotnun; og ef þú þá, í þessari sáluhjálpligu trú á Guðs son lifir framveigis, þína eptirverandi lífdaga, og, í trúnaðartrausti á hann og hans miskunsemi, skilst við heim þennann, þá muntú vissuliga, ásamt Covey, og öllum öndum hinna algjörliga réttlátu, loksins fyrir tróni Guðs sýngja eilíft Hallelúja!

---

## Huggun syndaranna.

Syndugum móti son Guðs tekur, sál mín heyr, dú boðskap þann! engann frá sér anmann hrekur; eymdum hladinn styrkja vann. Að hans fótum flýðú því, feldú þig hans sárum í, svo þín nauð og sekin þrjóti; syndugum Jesús tekur móti.

Syndugum tekur son Guds móti; syndarar ydur notid þad! Til hans nádar flýid flótir; flýid í þann grida stad! þar er gledi, þar er hægd, þar er allskins gjæda nægd; þar afleysist sérhvör sekur; syndugum móti Jesús tekur.

Syndugum móti son Guds tekur, sínu blódi hreinsar þá; svo er einginn fjandi frekur ad frelstum þadan kunni ná. Gódann hyrdir höfum vér, á herdum saudakiudur bér; svo þeir lífsins sælu njóti, syndugum Jesús tekur móti.

Syndugum tekur son Guds móti, sú er gledin yfrid stór; lofsins, þó ad lífid þrjóti, leidast þeir í dýrdar kór; öll er naudin í burt þá, allur daudi, kvöl og þrá; synda þadan sekt ei hrekur, syndugum móti Jesús tekur.

Syndugum móti son Guds tekur; sæll er hvör þess njóta kann, nær frá daudum dána vekur dómarinn, hvör ed sigur vann. Képpunst brædur blessun þá blíða' á hædum loks ad fá! Síst oss trúna sanna þrjóti, syndugum Jesús tekur móti.

---

## Ydrúnar þánki.

Til þín, Jesú! upplít augum, á þig mæni í dýrdinné; sældast skúr af sjónarbaugum, því sorgin géfur eckert hlje; þvodu mig í lífsins laugum — lausnar blóds, er rann á trie!

Eg er synda saurgun þakinn, svo eg hlýt að skammast mín, argur, vesæll, aumur, nakinn, á mér liggur þýngsla pín, af lögmáls banni hræddur, hrakinn, hvörsvegna eg flý til þín.

Þú komst á jörðu frelst að færa, fortöpuðum syndurum, og með þinni náð að næra, þá nálgast taka dauðanum; gef mér sálar sösluns skjæra, í samvitskunnar vandræðum!

Eg veit þú villt eingann reka út frá þér, sem kom til þín; þú afleysir syndum seka, sviptir mædda þeirra pín; lögmáls klögun lægir freka; lífsvon er því sálu mín!

Ef þú hreinsar öndu mína, í augsýn Guðs eg stadist fæ; mér vill hann þá miskun sýna, merki dýrðar löks eg næ. En eg skal prísa elsku þína, af öllu hjarta sí og æ.

---